[Þess íslendska evangeliska
smábókafélags rit Nr. 10.]

# Samtal

## millum tveggja reisenda,

útlagt úr svensku af útgefaranum.

---

Jóhann. Þessi morguntími, minn herra! er mikið yndisligur.

Pétur. Já, minn vin! hann sýnist boða að það verða muni mikið góður dagur í dag.

J. Seigið mér, minn herra! hve lángt þér hugsið að ferdast áfram á þessum veigi, sem þér nú haldið. Eg vildi gjarnan verða samferða einu hvörjum øðrum.

P. Að eins eina mílu vegar ætla eg að ferdast; og mér skal þykja vænt um að hafa þig fyrir samfarar mann.

J. Í samfør með øðrum góðum manni, og undir ánægjufulli samtali er líka sem leiðin verði styttri.

P. Þegar þú komst, var eg að þeinkja um það, að bera saman í huga mér eina reisu hér á jørðunni, við þá stóru lífsins reisu til annars heims.

J. Já, í þessu tilliti erum vér vissuliga allir, sem lífum í heimi þessum, sem ferdamenn og reisendur.

P. Sannliga er það svo. Og hvörsu sem veigirnir, á hvörjum vér ferdumst, eru óendanliga ólíkir, svo innilykjast þeir þó allir í þessum tveimur: að vér stefnum dagliga á reisu vorri, annaðhvört til himnaríkis edur helvítis. Og það er það sem mest umvardar fyrir hvörn og einn, að hann athugi og viti, á hvörjum þessara tveggja vega hann reikar.

J. Minn herra! eg má játa, að þetta er eitt þvílíkt efni, sem eg ecki hefi stórann gaum að géfið; en þar þér vórud að þeinkja um það sama þegar eg kom til ydar, þá skal mér vænt um þykja, að heyra meiníng ydar þar að lútandi.

P. Vor herra Jesús Christur géfur sjálfur eina mikið ljósa og heppiliga útskýríngu yfir þessa tvo veigi, hjá Matth. 7, 13. 14. þegar hann seigir: "gángið innum hið þraunga portið; því port það er vídt, og vegur sá er breidur, sem liggur til glötunar, og þeir eru margir sem á honum reika; en það port er þraungt, og sá vegur er mjór, sem til lífsins leidir, og fáir eru þeir sem hann rata."

J. Hvad meinar Jesús þá fyrir breida veiginn og vída portið?

P. Þar undir á að skiljast heimsins vanalegi lifnadarmáti, edur vegur sá, á hvörjum mann-

afskiur — allflestar reika; nefniliga syndarinnar og hégómans vegur. Port pad, i gégnum hvørt manneskiur fara á pennann veg, er vor náttúrliga spilling. Petta port er í sannleika vídt; vér allir, undir eins og vér fædumst í heim pennann, gaungum í gégnum pad sama. Ps. 51, 7. Róm. 5, 19. A peim breida veigi eru margar gøtur, sem stefna pó allar í sömu átt, og eiga mikid vel vid vorar syndumspiltu tilhneigíngar. Undir eins og kraptar vorrar sálar géta nockud ydjad, leida peir oss á pennann veiginn. Parfyrir samsærir ritníngin oss um: "ad mennirnir séu yfirtrodendur Guds bodorda allt í frá módurlífi"; ad peir "í frá sinni fædíngar-stundu gángi í villudómi og séu lýgigjarnir." Eina nákvæma útmálun hér yfir finnum vér í pistl. til Rómv. 3, 9–19. Eph. 2, 1–3. 4, 17–19.

S. En hvørnig gétur pad verid, ad par mennirnir eru svo ólíkir hvør ødrum í pánkahætti og hegdun, ad peir eingu ad sídur gángi flestir á einum og sama veigi?

P. Pó pad sé einn eingasti vegur sem peir reika á, pá er hann samt einn breidur vegur, sem hefur marga ólíka gøtustígi. Einn kann, til dæmis, ad gánga einn grófann lasta- og glæpaveg; kann ad vera blótmadur, lyggari, pjófur, dryckjurútari, edur saurlífis kroppur; annar kann ad vilja halda gódu mannordi, og af pví ad hann sér ad pvílíkt líferni stríðir par á móti, pá kann

þad vel ské, ad hann hegdi sér útvortis sidsamliga, en sé þó innvortis fullur af ágyrni, hofmóð sfundsýki, hefndargyrni og ødrum þess háttar løstum, sem leyna sér fyrir augum manna. Einn kann ad elska gledskap og kátinu, en slá sér þó ecki í hóp med grófum mønnum, heldur þeim, sem kunna ad gjøra sig lístuga á sínann og nettann hátt, ad veraldarinnar dómi; allt eptir því sem hvørs gédslag og kríngumstætur hann til leida. Sumir kunna ad vera opinberir spottarar trúarbragdanna; adrir kunna ad taka uppá sig skin gudhrædslunnar, og vera úlfar í saudaklædum. Já sumir kunna ad vera réttlátir og gudhræddir ad sínum eiginn dómi, fyrir þad þeir á rángann hátt eigna sér Guds nád, hvørja þeir misbrúka. Allir þessir, sem þó sýnast ad hegda sér svo ólíkt, gánga þó á þeim breida vegi, sem til gløtunar liggur; og hann er svo audratadur, ad þad er ómøguligt af hønum ad villast.

J. Vegir þessir eru þó alldeilis ólíkir sín á milli, og sumir þeirra sýnast mikid yndisligir; einasta ad endalyktin gjæti góð ordid.

P. Já víst eru þeir yndisligir fyrir þá sem á þeim reika, en endalykt þeirra er þó ógjæsan, eins og Salómon seigir: «Þar er einn vegur, sem í mannanna augum sýnist vera sá rétti vegur, en endalykt hans er d a u d i n n!" og vor frelsari sjálfur seigir oss, ad sá breidi vegur leidi til fordæmíngar, þad er til helvítis og eilífrar hørmúngar.

J. Eg óttast ad eg hafi athugalaust reikad á veigi þessum, og finn allareidu til óró'emi út af því hvar slíkt muni fyrir mér leuda. En seigid mér nú og svo, hvad skiljast á fyrir þraunga veiginn, sém til lífsins leidir?

M. Þar sem þessi vegur liggur til eilífs lífs, þá er hann einginn annar enn sá sem vor herra útmálar hjá Joh. 14, 6. þar hann seigir: "Eg er vegurinn, einginn kémur til fodursins, nema gégnum mig. Les ogsvo ordin sem standa í pist. til Ebr. 10, 19. 20. Af þessum ordatiltækjum sjest ljósliga, ad Jesús sjálfur er vegur sá, sem leidir til Guds og þess eilífa lífs. Med sínum dauda á krossinum gjørdist hann eitt offur fyrir syndir vorar og sætti synduga menn vid Gud, og þannig opnadist einn vegur, á hvorjum syndararnir kunna ad nálgast Gud, og verda í kjærleika mótteknir. Og eins og Christur er vegur sá, sem til lífsins leidir, svo er hann ogsvo þad port, um hvert vér inngaunguum. Þad má ljósliga sjá af hans eigin ordum hjá Jóh. 10, 9. «Jeg er dyrnar, hvor sem inngeingur í gégnum mig, hann skal ad eilífu hólpinn verda." Fyrir trúna á Christum komust vér á veg þennann; og eptir þad madur er einustinni inngeinginn gégnum Christum, sem er dyrnar, hlýtur madur ad halda áfram ad gánga á honum beinleidis, allt ad skeidsins takmarki, sem er himnaríki og þad eilífa líf.

J. Sé nú þessu svoleidis varid, sem þér útmálid þad, hvornig kémur þad þá til, ad sagt er, ad þetta port sé þraungt og þessi vegur mjór?

P. Þraungt kallast port þetta, vegna þess ørdugleika, er mæta sýnist syndaranum, þegar hann allra fyrst byrjar ad gánga í gégnum þad. Svo leingi sem þú merkir hjá þér eintómt samvitskubríxli, en hjarta þitt er ei undirgéfid ordid blýdni Christi, þá mun þessarar inngaungu ørdugleiki vyrdast þér rétt ósigrvinnanligur. Til þess ad géta umflúid eptirkomandi reidi, muntú, ad vísu, álíta ýtrid naudsýnligt sé ad gánga á þessum veigi; en ad sleppa allri von um nockra nád, sem grundi sig á þínum gódverkum, jafnvel ogsvo á þínum bænum og betrunar tárum, en leita forlíkunar hjá Gudi, svo sem hinn allrastærsti syndari, einúngis og alleina fyrir Jesú Christi sakir, þad er einn þúngbær póstur fyrir þad hofmódugq hjarta. Sømuleidis sprettur þessi ørdugleiki einasta af þínu eigin sinnisfari; hann kémur ecki frá Gudi, heldur frá þinni náttúrligu spillíngu. Ef þú gétur látid þér nægja med ad þyggja nádina, svo sem sá stærsti syndari, þá tekur þér ad finnast allt létt og audveldt.

J. Svo skilst mér þá, ad mesta torveldnin sé í því salin, hvørsu madur géti í fyrstu komist á veg þennann.

P. Í því ferdú villt, minn vin! Ein straung barátta geisst ogsvo midt á sjálfri þessari reisu; því vegurinn er mjór, seigir Jesús. Þér maun á honum mæta forakt heimsins, ásláttur af þínum kunníngjum; og ef þú samt heldur áfram trúr ad vera, hlýturdú ad þola hörd ámæli og mótspyrnu, af þeim sem kallast christnir, en eru það ecki. Þú hlýtur ad reina freistíngar útvortis frá og mædast af margfö-du stridi — innvortis, med sjálfum þér, sem opt vill freista þín, til ad vikja aptur af þessum veigi. En láttú þér til hugar koma, ad vegurinn er mjór, og þú kant þessvegna audveldt ad tapa honum, víkjirdú hid allra-minsta út frá honum, til hægri edur vinstri handar; já þú kant, ádur þú sjálfur þess var verdur, ad vera kominn aptur á hann breida veiginn.

J. Mæti þvílíkur ørdugleiki, sem þér frástkírid, á veigi þessum, þá óttast eg þeir muni mjøg fáir vera, sem tjái sig fúsa til ad fara á hann, í strid vid slíkar hindranir.

P. Þad er, því midur, allt of satt, ad á þessum mjóa veigi munúi finna mikid lítinn hóp samreisenda, því "fáir eru þeir sem rata hann", seigir Jesús. Í samburdi vid þá ógudligu eru þeir gudhræddu eins og eptirænandi kornstángir ad loknni uppskéru. En vertú hughraustur; jafnvel þó þeir fáir séu, sem á þessum mjóa veigi vilja slást í før med oss, þá eru samt þessir fáu, hinir farsælustu á jørdunni. Viljirdú af alvøru gánga

á veigi þessum, áttu, midt í øllum þínum ørdugleika og strídi, vissa hjálp og huggun frá vors himneska fødurs hendi; já þú munt til fylgjara fá einn óslýniligann her himneska anda, sem yfir þér vakir. Ebr. 1, 11. Sæla sú í andanum, sem þú njóta fær, nær þú geingur á þessum þraunga veigi, mun lángt yfirstíga alla þá torveldni og freistíngar, sem þér á vønum mæta kunna.

J. Já eg veit það vel, að það eilífa lífid er óutmálanliga dýrmætt, og eg barma mér sárliga yfir því, að eg allt híngað til hefi lagt svo litla alúð á að ávinna það.

P. Það skyldi vera mér stór gledi, ef þú, minn vinl værir sannfærdur ordinn um það, sem eg sagt hefi. Eg hefi viljað setja þér fyrir sjónir lífid og daudan. Hugsa til þess, að fortøpun sú, sem þeim ógudligu búinn er, henni er ei svoleidis háttað, að líf þeirra edur tilvera að eingu verdi, heldur tapa þeir allri farsæld og vellídun frá sínu lífi, svo líf þeirra verdur daudanum þúsund verra. En aptur á móti þeinktú til þess, að líf það, sem þeir gudhræddu njóta fá, er ecki einasta fullkomin frelsan frá øllu vondu, heldur ein eilíf not þeirrar sælu og blessunar, sem eckert auga hefur sjed, eckert eyra heyrdt og í eingis mans hjarta hefur nidurstígid. Kappkosta þessvegna að komast inn í gégnum það þraungva portid, og gack sídan affram á þeim mjóa veigi, svo mun þér géfinn verda einn ríkugligur inn-

gángur í drottins Jesú Christi eilífa dýrdar ríki. O! haldtú þessvegna ei leingur áfram á þeim breida veigi, því þad gétur skéd, ad þó þér þá einhvörn tíma til hugar komi, ad leitast vid ad fá inngaungu í Guds ríki, ad þú þá ecki fáir þess orkad. Luc. 13, 25.

## Gudligt andvarp.

Í mér skapa, herra! eitt hiarta hreint af synd og rádvandt gjed; fyrir Jesú blódid bjarta, bít mér vissum anda med!

Augsýn rektú ei frá þinni ángurbitna sálu mín! Nem ei frá mér nockrusinni nálægd heilags anda þín!

Svala mér af sætleik pínum, sorgir dríf úr hjartans reit; og þó eg mæta meigi pínum, mér gédhraustann anda veit!

Herra! sem þér líkar, láttu lagast verkin mín og ord; þú ert Gud, og þinn almáttur þessum rædur himni og stord.

Þinn góda anda lát mig leida lífs á réttar brautir hér, svo eg finni farsæld greida, frelstur loks í dýrd hjá þér.